Hér. hvílist. vært.
Frummódur. fadmi. falid. lík.
Af. gódum. sárt. saknads. gøfug=qvendis.

# Madame. Solveigar. Bogadóttur. Thorarensen.

## Fæddrar. Benedictsen.

Leit. Hún. ljós. heimsins. 27da. October. 1801.
Inngéck. frá. því. til. ædri. sælu. 7da. Martz. 1835.
Teingdist. hjónabands. helgu. bandi. 21ta. Júlii. 1821.
Med.
Herra. Apothekara. **Oddi. Thorarensen.**
Er. Hana. syrgjandi. tregar. hér.
Med. sex. børnum.
Tvø. Hennar. fundi. fagna. á. fegins. landi.

---

Otraud. skyldurækt.
I. egin. húsi.
Vid. maka. megi. hjú.
Hana. mest. tídi.

Vinum. var. Hún. kjær.
Og. vandamønnum.
Aumstøddum. adstod.
Og. øllum. gód.

---

Bitur fljóta um búinn legstad Þinn
Þú fullsæla! Þinna vina tárin;
Þeirra' ei trega' ad fullu gróa sárin,
Þó Hèrrann þerri hármatár af kinn.

Lífsins skamtad skeid Þú ánægd geckst,
Vannst med trú í vinnu settum reiti;
Vardir fengnu pundi' ad øllu leiti
Um hádag lífs því hvíld og verdkaup féckst.

Hvad sá lengsti lífsins aldur er?
Augnablik, sem ódar vonum þrýtur,
Innanskams Þú þina hjá Þér lítur
Ástvini, sem eptir þreyja hér.

Svo mintist þeirrar framlidnu
Hennar qvenndygda heidrari.

**Þ. Sveinbjørnsson.**



Nú fór vor Sólveig til sólar
um sóluhlíd anda,
reid hún um grindurnar gullnu
til Gimla kóngs halla;
þó fagurlagadir limir
sé lagdir í moldu
og jördu gjöfi hún jardar
í jördu er hún ecki!

Þó svo vér séum frá henni
ad samvistum skilin —
síst hana náum vér nálgast
á nábrautum harma —
Tjár ei þess lifir í ljósi
ad leita í myrkri,
né þess hjá lifendum lifir
í landi daudra!

Leitum heldur til hennar
heimkynnis rétta,
og sem daggdropar á blómstrum
Dagkóngi fagna.
Egum med öruggu skapi
mót árgeislum horfa
á þeim vor Sólveig frá sólu
þú sendir oss quedju!

B. Th.